# Lög

## hins íslenzka

# Bókmenta-Félags.

Útgéfin í annad sinn

med

## Vidbætir,

á Félagsins kostnad.



Videyar Klaustri, 1836.
Prentud af Bókþryckjara Helga Helgasyni.

## Fyrsti Kapítuli.

### Um Félagsins tilgáng.

1. Það er tilgángur Félags þessa, að viðhalda hinni íslenzku túngu og bókaskrift, og meðfram mentun og heiðri þjóðarinnar, bæði með bókum og ødrum atburðum, svo fremi þess efni leyfa, eptir þessu undirlagi.

2. Félagið skal í ljós leiða rit þau, er fyrr meir hafa samin verið á íslenzku, einkum þau, hvørra høfundar eru dauðir og hættast er við að týnast mundu, en landinu væri hinn mesti sómi að útkjæmu á prent. Því næst skal Félagið ala ønn fyrir, að prentaðar verði bækur, er þarflegar virðast fyrir almenníng, og líka þær, er brúkast og hentugar eru við kénnslu í skólanum.

3. Þó fráskilur Félagið að svo støddu sérílagi tvær mentagreinir: guðfræði og hin

eiginlegu fornfrædi, er þrjú ønnur Félog um annast, nefnilega, það Evangéliska Smábóka Félag fyrir nordan, Bibliufélagid fyrir sunnan land og Arna Magnússonar Nefndinn í Kaupmannahøfn.

4. Félagid skal láta prenta hvørja bók fyrir sig, en ekkért það ritsafn, er framhaldid verdur árlega, nema stutt fréttabløð, er innihalda eigu þær helstu nýúngar, vidvíkjandi landsstjórn, merkisatburdum, búskap, kauphøndlan og bókaskrift bædi innanlands og utan; þó skal einga íslenzka bók lofa né lasta, heldur einasta í stuttu máli drepa á hennar inntak, en vel þykir tilfallid ad segja meiníngu sína um bækur á ødrum túngum, sem almenníngur á Íslandi gétur sídur dæmt um sjálfur.

5. Félagid skal vanda ordfæri, prent og pappír, sem verdur, setja ei hærra verdlag á bækur en hérumbil svari kostnadi, en ekki borga tilløg Félagsmanna med bókum né ødru, heldur verja øllu til ad útgéfa því fleiri bækur, og framkvæma tilgánginn hid ýtrasta.

6. Ekki skulu Félagar skyldir til ad rita neitt sjálfir, framar en sjálfum líkar, heldur skulu Félaginu eins kærkomin allra manna rit, er framkvæma mega þess tilgáng; þó áskilur þad sér, med nefnd manna, í vissum vísindagreinum ad dæma um þad sem innsendt verdur, hvad þarft sé og hæfilegt ad leggjast fyrir almenníng.

7. Einginn dirfist ad umbreyta einu ordi né atridi í annars manns riti, sem Félagid hefir medtekid, eda þarvid ad bæta athugasemdum, formála edur eptirmála, án bréflegra tilmæla edur leyfis frá höfundinum eda ødrum hlutadeigendum. En þyki nockud ábótavandt í gódri bók, þá bidji Félagid höfundinn ad lagfæra.

8. Aldrei skal Félagid verja gjørvøllum inngjøldum sínum til kostnadar árlega, heldur leifa hérumbil fimtúng þeirra, svo þad fái vissan stofn og falli ei strax, þó støku medlimir deyi eda úr gángi. Skal þessi upplagseyrir geymast ásamt hans ágóda, og þarvid bætist jafnmikill hluti nærsta árs inngjalda,

uns høfudstóll er varinn svo álitlega, ad hann einn fái vidhaldid Félaginu; þá geymist einúngis fimtíngur af hans rentum, sem bætist vid Félagsins fasta høfudstól; en allar adrar tekjur Félagsins brúkist strax, eptir því sem þykir best henta.

## Annar Kapítuli.

### *Um Félagsins løgun.*

9. Adsetursstadir Félagsins séu tveir, Reykjavík og Kaupmannahøfn; en hvorjum hluta þess stjórni þrír embættismenn: Forseti, Féhirdir og Skrifari.

10. Eínginn þessara embættismanna skal leíngur hafa embætti en eitt ár í senn, nema kosinn sé á ný.

11. Auk þessara velji Félagid Auka-forseta, Auka-féhirdir og Auka-skrifara, og hafi allir þessir sama rétt og hinir í þeirra forføllum; en þegar embættismennirnir eru sjálfir vidstaddir, séu tédir Auka-embættismenn álitnir hinir helstu af Ordulimum Félagsins.

12. Það skal allra embættismanna skylda, að mæta á øllum fundum, og verði eingin ályktan, nema níu hafi mætt á fundinum alls; en vel má byrjudum athøfnum framhalda, þó nockrir, er mætt hafa, gángi burt, ámedan allir embættismenn og auka-embættismenn eru nálægir.

13. Á fundum skal øll málefni Félagsins útkljá eptir atkvædafjølda, med sedlum, upp-réttum høndum edur kúlum, sem Forseti ákvedur; en verdi jafnmargir hvørjir á sínu máli, þá skéri Forseti úr, en af eiginn-rammleik skal hann ei dirfast að ákvarda neitt áríðandi. Þeir sem ecki sækja félagsfundi eda koma ofseint, láti sér lynda það sem þar verdur ákvedid, einsog hefdi þeir sjálfir við verið.

14. Samkomur skal í Kaupmannahøfn halda hvørn fyrsta mánadardag eda þegar Forseta þykir þess þørf vera, og skal hann þá gjøra þær kunnar med bodsbréfi, er nefna skal þau helstu málefni er á fundinum af hans hálfu verda framborin.

15. Á Íslandi skulu ætíð tveir almennir fundir haldast, hann seinasta virkan dag í Martsmánuði og 11ta Júlii eða næsta virkan dag; en í Kaupmannahøfn einúngis einn, á Félagsins upphafsdegi þann 30ta Martii. Þá skal Forseti og Skrifari framleggja stutta skírslu um Félagsins atgjørðir hið umlíðna ár; skal sú skírsla síðan útgéfast á íslenzku í þeim íslenzku tíðindum og ágrip af henni í því dønsku fréttablaði er best þykir hent. Líka skal Féhirðir framleggja greinilegan ársreikníng og það allt er þartil heyrir. Því skal og svo til haga, ef Félaginu skéð gétur skaðlaust, að ell miklsvarðandi málefni þá verði framborin og útkljáð.

16. Á þessum almenna fundi og þegar velja skal embættismenn, eru allir atkvæðigéfandi Félagar skyldir að mæta að forfallalausu.

17. Á øllum félagsfundum skal, samkvæmt aðalaugnamiðinu, allt munnlegt og

skriflegt framfara á íslenzku, þó útlenzkir séu nálægir; samt skal þeim frjálst að framsetja sína meiníngu á dönsku um Félagsins málefni, og á þá að svara þeim á dönsku aptur.

18. Einginn má hafa tvø embætti í einu.

19. Þegar embætti losnar að øllu leiti, skal Félaginu frjálst að kjósa af embættismønnum eða orðulimum hvørn sem þartil þykir best fallinn. Líka má þann, er við embætti skilur, aptur til embættis kjósa, ef svo þykir betur fara.

20. Embættismenn skal kjósa eptir framkvæmd og dugnaði, en ecki eptir mannvirðíngu. Kémur því einginn í álit til neins embættis, sem ecki er innfæddur íslendíngur, eða þeckir Ísland, talar og skrifar íslenzku, eins og innfæddur.

21. Forseti annist um að løgunum verði hlýdt af øllum og að sérhvørr fullnægi skyldu sinni við Félagið, beri upp málefni á fé-

lagsfundum, safni atkvædisordum og segi upp álykiun þess; svo og skal hann, ásamt Féhirdi, rádstafa Félagsins fjársjódi sem óhultast þykir og ábatamest, en ásamt Skrifara rádstafa Félagsins bókum til prentunar og ødrum þess álygktunum til framkvæmdar, semja samþykktir og þesskonar. Forseti og Féhirdir gjøri sameiginlega og sérílagi, eptir því sem hvørs þeirra embætti vidkémur, Félaginu skil fyrir þess peníngum, eins gjøri Forseti og Skrifari skil fyrir, ad þess álygktunum verdi fullnusta gjør.

22. Féhirdir skal taka vid Félagsins inngjøldum, kvittéra fyrir og hirda vandlega, borga þaraf reikníinga þá er Forseti hefir uppáteiknad, bóka þad allt og gjøra þar grein fyrir, nær Forseti óskar, og adalreikníng á hverjum tólf mánudum (í Kaupmannahøfn þann 30ta Martii); einnig sanna reikníng þenna med kvittánsíum og skjølum. Aukaforseti og Aukaféhirdir, eda partil af Félaginu valin nefnd, skuln þennan ársreikníng grandgjæfilega yfirskoda, og ef

réttur reynist, eigu Forseti og Skrifari, Félagsins vegna, þar fyrir að géfa Féhirdir skíra kvittansíu.

23. Skrifari skal bóka það sem framfer á félagsfundum øllum; en á adra bók skjøl þau øll er Félaginu vidkoma. Hann á líka að semja félagsbréf og veita vidtøku þeim bréfum sem til þess koma, lesa þau sjálfur og sýna Forseta strax og verdur, en þessi á að sýna þau á næstu samkomu, sé nokkud í þeim merkilegt. Hann skal og afhenda Féhirdi lista yfir alla Félagsmenn og hve mikið hver vill lúka í peníngum árlega, og skrifa það annað, er uppá kann að falla.

24. Sérhvørr embættismadur á að gjøra Félaginu grein fyrir embættis breytni sinni, þegar það krefst þess eda hann skilur við embættið. Forsómi hann nokkud af skyldu sinni, sem Félagið bídur sékkada af, bæti hann það sjálfur; en brjóti hann skrá þessa, hafi hann fyrirgjørt embætti.

25. Félagið á að hafa umboðsmenn á helstu høfnum og hérødum Íslands; þá

skal framvegis velja sem adra embættismenn; þó ber eigi naudsyn til ad þeir séu íslenzkir. Þad skal vera skylda þeirra, ad taka vid Félagsins bókum, og anvist Félagsins embættismenn um, ad þeir hafi þær til sølu. Þeir skulu taka vid Félagsins peníngum og géfa Félaginu til kynna sem fljótast sérhvad merkilegt þess efnum vidvíkjandi, sem þeir verda áskinja um, og annad sem Félagid þá um bidur. Þeir skulu og senda Félaginu skíran reikníng á hvørju ári.

26. Félagslimir skulu vera þrennslags: Ordulimir, Yfirordulimir og Heidurslimir.

27. Ordulimir eru allir þeir er skilja íslenzku, þekkja Félagsins tilgáng, og annadhvørt idka bókmentir edur í ødru tilliti eru þektir ad sérlegri greind og dugnadi; þeir skulu einir hafa atkvædisord á Félagsfundum.

28. Yfirordulimir eru þeir er ekki hafa allt þad til ad bera, er nú var talid; þeir hafa ekki atkvædisórd á félagsfundum.

29. Heidurslimi skal velja eptir tign og verdugleik í lærdómi edur ødrum dugnadi; séu þeir ádur ordulimir, edur hafi jafna eiginlegleika, njóti atkvædisréttar.

30. Allir Félagslimir megu sækja félagsfundi, og sérhvørr má bera upp þad mál er honum þykir þarft ad hugleida.

31. Þeir er gjørast vilja Félagslimir, skulu skriflega géfa Forseta þad til vitundar og ákvedi um leid hvada stirk þeir ætli ad veita; en þad er ákvedid, ad hinn minnsti tillagseyrir fyrir Ordulimi og Yfirordulimi sé í Kaupmannahøfn þrír Rbdlir S. V. árlega. Forseti skal bera þad upp á næstu samkomu, en Félagid dæmi um med atkvædafjølda, og ákvardi undireins í hvørn flokk hinn nýi limur skuli kjørinn. Nú vill nokkur segja sig úr vorum félagsskap, gefi þad og Forseta skriflega til vitundar, sem lýsi því ad eins á samkomu, en Skrifari bóki þad.

32. Allir Félagslimir í Kaupmannahøfn hafi lokid tillagi sínu innan 30ta Nóvembr.

hvørs árs. Sé tillagið ei goldið á þeim tíma, géfi Féhirðir Forseta það til vitundar, en Forseti biðji skuldunaut Félagsins vegna, um bítalíng að 14 daga fresti, og má þá bón uppá téðan máta tvisvar sinnum ítreka, ef þørf gjørist, og verði enn ei lokið á tilteknum tíma, má útiloka skuldunaut af Félaginu. Gjalddaga Félagslima á Íslandi verður að haga eptir ásigkomulagi fyrst um sinn.

## Þriðji Kapítuli.

### Um sambánd beggja félagshluta.

33. Reykjavíkur hlutinn er Félagsins høfuðdeild, og er því tilhlýðilegt, að hann sé fyrri að virðíngu; þó svo, að báðir séu jafnsjálfráðir í øllu því, sem ekki hindrar, heldur framar beggja aðaltilgáng.

34. Skulu því hvørirtveggju Forsetar og aðrir embættismenn eiga jafnan rétt hvørir í sínum hluta.

35. Hvørtveggi Félagshluti kjósi sína embættismenn.

36. Hvør Félagshluti fyrir sig dæmi um þau rit sem honum sendast og velji af eldri bókum hvad þeir vilja útgéfa, en dæmi ekki um þau rit sem hinn hlutinn hefir medtekid, þótt þau eigi hjá þeim ad prenta, nema einhver med berum ordum leggi ritgjørd sína undir hins Félagsins eda einstaks Félaga dóm til lagfæringar.

37. Hafi hvørr fyrir sig sinn reikníng og fari med peninga sína eptir gédþekkni, þó á þann hátt sem sídar segir.

38. Láti prenta rit sín, þar sem hvørjum Félagshluta þykir best henta; þó á bækur heldur ad prenta og binda á Íslandi en í Kaupmannahøfn, ef það gétur skéd Félaginu ad skadlausu.

39. En til þess ad bádir Félagshlutar ekki hérmed tvistrist, skal hvorugum ad eginn þótta leyft ad umbreyta eda víkja frá neinu í þessum grundvallarreglum.

40. Þyki þesshattar umbreytíng æskileg og verdi þeir ekki á eitt sáttir, þá eigu allir Embættismenn og Aukaembættismenn beggja Félagshluta ad géfa sín atkvædi skriflega og med nafni, og rádi fjøldinn, en verdi jafnmargir á hvørn veg, skéri íslenzki Forsetinn úr málinu.

41. Adrar samþyktir sem tími eda stadur útheimtir, og sem hvørki strída gégn þessum grundvallarreglum, né rjúfa þær, sé hvørjum hluta frjálst ad vidtaka hjá sjálfum sér; en þó á strax sem verdur ad birta þær fyrir hinum Félagshlutanum.

42. Hvørr sem er Félagi á ødrum stad, sé þad líka á hinum, þegar hann er þar vidstaddur; en sæki Embættismadur annars hlutans hinn Félagshlutann heim, gángi sá íslenzki á undan í virdíngu, en sá er fyrir situr rádi sínum sýslunum eins og venjulega.

43. Hvørr sá sem umbodsmadur er annars hlutans, sé þad einnig hins, og fari

eins trúlega með beggja Félagshluta efni og standi hvörjumtveggja skil fyrir því er hvörjum viðkémur.

44. Hvørr Félagshluti fari með hins eigur og ønnur efni, sem sín eigin. Árlegar skírslur séu sameiginlegar, einúngis nefnist, hvørr og hvar sá Félagi er, sem ritað hefir þetta eður hitt, komið einu eður øðru til leiðar. Báðir hlutar beri sama nafn og heiti „Hið íslenzka Bókmentafélag", þeir hafi og einshátar innsigli.

45. Hvørr Félagshluti dæmi til skiptis árlega hvað gjørast og prentast á, að svo miklu leiti sem Félagsins efni leyfa, nema báðum komi øðruvísi saman, svosem: til að framhalda stóru verki.

46. Hvørtveggi Félagshluti skal árlega láta prenta í Fréttablødum reikníng yfir inngjøld og útgjøld sín.

47. Verði ágreiníngur um eitthvørt sameginlegt efni, sem ekki er ráð fyrir gjørt

í þessum løgum, þá á ad fara með það svosem segir í framanskrifuðnm §. 40.

48. Þegar þessi Skrá er løgtekin af báðum Félagshlutum, skal hana prenta á íslenzku og dønsku ad kostnaði beggja Félagshluta.

# Viðbætir.

(Sjá Skírnirs 2ann árgáng bls. 54—57).

## Við 3ju grein laganna.

Félagið áskilur sér framvegis rétt til (eins og þegar er skéð við útgáfu Sturlúngasögu og í vissu tilliti Íslands nýari henni fylgjandi árbóka) að útgéfa eldri og ýngri sögur, sem fróðligar eru; þó án latínskra eða danskra útleggínga, og undireins þær einar, sem önnur félög ei annars hafa til prentunar búið. Sömuleiðis undantekur það ei framar guðfræði frá ritgjörðum sínum, þó með því skilyrði, að þannig tilætlud útgáfa sérhvorrar bókar í þeim vísindum, áður sé samþykkt af deild félagsins á Íslandi.

## Vid 12tu grein.

Framvegis þurfa ei fleiri enn sjø ordu-limir allš. ad mæta á sérhvørjum félags-fundi, til þess ad hann løggildur álítist, og þad sem þar ályktast, einnig skuldbindandi fyri þá félagslimi, sem á hinum sama ecki mætt hafa, eptir ádur sýndu bodsbréfi.

## Vid 14du grein.

Ein almenn samkoma haldist héreptir í Kaupmannahøfn á hveriu hálfu missiri edur hvørjum þremur mánudum, enn auka-samkomur annars, nær Forseta þurfa þykir edur sérleg naudsyn krefur.

## Vid 15du grein.

Adalsamkomu félagsdeildarinnar í Kaupmannahøfn á framvegis ad halda í byrjun Marzí-mánadar, og hafi Forseti, þegar skilur vid embætti sitt, eigi ákvard-ad neinar atgjørdir fyri komandi ár, en sá

nýkosni Forseti kalli saman í þeim tilgángi annann fund í lok sama mánadar.

## Vid 22ra grein.

Reikníngar deildarinnar í Kaupmannahøfn byrjist framvegis (eins og á sídustu árum) þ. 1ta Marzí og endist þann sídasta Febrúarí; til þess ad reikníngarnir nógu tímanlega í Sagnablødunum prentadir verdi.

## Vid 26tu grein.

Ad korrespónderandi eda bréflegir medlimir héreptir veljast mégi, er ei borgi árs tilløg, þegar þeir sýnt hafa Íslandi, þess lærdómsefnum edur sjálfu félaginu tøluverdan gódvilja. Eins íslenzkir sem útlendir menn meiga þartil veljast, nær sérlegar kríngumstædur knýa til þessara úrræda.

## Auka greinir.

1. Auk vors umbodsmanns til bókageymslu og sølu hér í Kaupmannahøfn; hafi einn eda fleiri af stadarins bókhøndlurum félagsins prentudu bækur til sølu,

mót vanalegum sölueyri. Þeir peníngar, sem félaginu bætast á tédan hátt, meðtakist þó af nefndum vorum umbodsmanni, er gjörir skil fyri þeim og bókunum í sínum árs reikníngi.

2. Nær ritgjørdir félagsins útkoma á prent, auglýsast þær og verdlag þeirra í dønskum og þýzkum fréttablødum og bókaskrám.

3. Forlagsbækur félagsins, af hverjum gnægur fordi er til, edur héreptir útkoma, géfist til Danmerkur stiftisbókasafna edur annara sérdeilis merkilegra í tédu riki. Sømuleidis géfist þær til yfirbodinna embættismanna á Íslandi, er med gódvilja stirkja félagsins hagi, og vissra þess heidurslima og rithøfunda, eins og híngad til skéd hefir. Enn fremur mega slíkar bækur géfast støku bókasøfnum og lærdómsmønnum í ødrum ríkjum, þó svo, ad tala slíkra exemplara af hværri bók fyrir sig ei yfirstígi 20 á ári.

4. Eins og vanalegt er í ødrum féløgum, ad medlimir þeirra fái ársreikníngа og adrar líkar ávísanir ókeypis; svo séu einnig þau íslenzku sagnabløð, er hér= eptir útkoma, sérhvørjum medlim géf= ins afhendt, enn seljist ødrum útifrá,, er þau girnast kunna, eptir ákvednu verdlagi.

5. Umbodsmenn félagsins á Íslandi, er ei reikna sér vissan søluevri, og ann= ars gjøra góð skil fyrir umbodi sínu, fái hvør eitt exemplar ókeypis af bók= um þeim, er þeir til sølu hafa.

6. Regla skal þad vera, ad leggja ei upp af nokkurri bók meira enn (500) exemplør; enn skyldi félagsins stjórn= endum þykja líkindi til, ad bók sú, sem þad héfir í áformi ad prenta, verdi sérdeilis girnilig almenníngi, þá skal samkomu halda til ad aftala, hvørsu miklu stærra upplagid megi vera, enn þessi regla segir.

Séradauki var sampykkt á almennum félagsfundi af félagsdeildinni í Reykjavík þann 5ta Septembr. 1828:

Í hvört sinn þegar viktug málefni þurfa ad fyrirtakast og naudsýn þykir adbera, skal leita skriflegra adkvæda fráverandi félagslima, sem eru oflángt burtu til þess ad sækja félagsdeildarinnar fund í Reykjavík.